ins dóm, hvørs vegna mál þetta er til dóms uppꞌ tekid. ut supra.

M. Stephensen.

## Num. XXIX.

Þann 17da Júlí settist í Løgþingis-rettinn Vice-Løgmadur B. Grøndal, og affagdi svolátandi Interlócútoríum i Próventu-gjafar eda Testamentis málinu úr Rángárvalla-sýslu.

Í bréfi til þessaRéttar, dat. þann 4da Júlí þ á., hefir Sýslumadur V. Thórarinsson framsett tvær Exceptióner á móti Løgþingis-réttar stefnu Bóndans Eiriks Sveinssonar á Ási, sú fyrri er: ad hvørgi finnist nefndur í stefnunni sá stadur né hús, hvar hann mæta egi í þessu máli; sú sídari: ad hann sé ecki stefndur til ad heyra nockrar Eiriks ákjærur edur uppástand móti sér, ellegar til ad sjá frá honum skjøl í Rétt løgd, og krefst þess vegna ad stefnunni verdi afvísad, og hún ógyld dæmd. Hvad þá fyrri Exceptión snertir, þá þykir Réttinum hún ecki svo mikilvæg, ad hún verkad gëti stefnunnar frávísun, því þó hún ecki nefni greinilega þann stad edur hús, hvar Løgþingis-rétturinn hald-

 inn



inn yrdi þetta ár, þá kunni þó ecki Sýslumanni V. Thórarinssyni, sem sjálfur públíceradi á Vor-þingum í Rángárvalla-sýslu hvar Løgþingis-réttur í ár haldinn yrdi, ad vera þetta svo ókunnugt, enda hefir hann nú hér sjálfur mætt, sem skickadur Prócúrator í ødru máli. Hvad þá adra Exceptión snertir, ad Sýslumadur V Thórarinsson ecki stefndur sé af Eiríki Sveinssyni til ad heyra nockrar ákjærur hans eda uppástand móti sér, eda sjá skjøl í Réttinn framløgd, þá ber umgétin Eiriks stefna þad med sér, ad hún í þessum pósti ecki er løgum og sidvenju samqvæm; kann þvi ecki Sýslumadur V. Thórarinsson ad álitast skyldugur til ad gégna neinu því, er Eiríkur edur hans Talsmadur hafa kynnu fram ad færa í þetta sinn, vidvíkjandi þessu Próventu-gjafar edur Testamentis máli; hvørs vegna Løgþingis-réttar stefnu Eiriks afvísast frá þessum Rétti, en honum geymist fullkominn Réttur til ad framfylgja málinu fyrir nærstkomandi Løgþingi árid 1800, ef honum svo þóknast.

*ut supra.* Grøndal.

NUM.

## Num. XXX.

Sama s. m. settist ad nýju í Løgþíngis-rettinn Vice-Løgmadur B. Grøndal, mætti svo Sýslumadur G. Ketilsson og konstitúeradur Sýslumadur Ch. Vigfússon, sem framlagdi Løgþíngis-rettar stefnu af gjærdags dató, hvar med Delinqventinden Sigrídur Bjørnsdóttir innstefnist híngad med hennar Talsmanni, Sýslumanni G. Ketilssyni, til ad mæta hjer í dag fyrir Løgþíngis-rettinum, ádur enn dómur gángi um þetta mál, og Sýslumadur G. Ketilsson til ad túlka hennar málefni. Sýslumadur G. Ketilsson segist vera óundirbúinn og óstefndur til ad taka gjenmælum fyrir saka-persónuna Sigrídi Bjørnsdóttur, bevísanlega daudsjúka, liggjandi austur í eystri Skaptafells-sýslu, og menn þó þadan látast hafa fengid stefnda á hálfrar nætur fresti, edur hvad minna vera kann, til ad sá hjer fyrir Rettinum hálshøggs dóm, er allt in materia & forma uppástendst ógudlegt og óløglegt. Konstitúeradur Sýslumadur Ch. Vigfússon uppástendur, ad hann hafi fengid frá Stipt amtinu Intimation til ad innstefna nefndri Delinqventinde og hennar Talsmanni, og segist eckert framar hafa stefnunni til forsvars, þar hún se løglega birt Sýslumanni G. Ketilssyni af þeim undirskrifudu stefnuvottum Jóni Grímssyni og Jóni Magnússyni. Vóru þeir sídan fyrir Rettinn innkalladir, svo ad þar

mætti

mætti heyra þeirra framburd. Jón Grímsson mætir í Rettinum, og uppástendur ad stefnan hafi løglega birt verid fyrir Sýslumanninum í gjærqvøldi fyrir sólarlag, en sá annar stefnu-vottur Jón Magnússon hafi þar ei samstundis vid verid. Hvad frekara er í þessu máli ad gjøra, geymir Retturinn sér ad álykta til seinna í dag. ut supra.

Grøndal.

## Num. XXXI.

Sama e. m. settist aptur í Rettinn Vice-Løgmadur B. Grøndal, og mættu á ný málspartarnir í Delinqvent søkinni, sem sídarst var tracterud í Formiddag, kom þá einnig fyrir Rettinn Acter í þeirri sømu, Sýslumadur S. Petursson, og qvadst ekkert á móti því hafa, ad þetta mál se reassumerad; afsagdi þá Vice-Løgmadur B. Grøndal svo látandi Interlocutorium:

Sá konstitúeradi Sýslumadur Ch. Vigfússon skal aptur løglega innstefna fyrir þennann Rétt, saka-persónunni Sigrídi Bjørnsdóttir, og hennar Talsmanni, Sýslumanni S. Ketilssyni strax í dag, med aptans fyrirkalli, og birta nefndum Sýslumanni þá stefnu eptir løgum.

Num.

# Num. XXXII.

Sama e. m. var á nÿ fyrirtekid Súspensións mál Sÿslumanns J. Helgasonar, hvørr þá og mætti fyrir Rettinum ásamt Actóri, Sÿslumanni S. Peturssyni, sem framlagdi innlegg af 16da húsus, hvar med hann vill ad engu gjørt hafa þad, sem Sÿslumadur J. Helgason hefir hjer fyrir Rettinum fært ser til forsvars, og loksins gjørir uppástand í 4um póstum móti því sama; þetta Dócúment uppleſid áteiknast lit. N. Nefndu brefi fylgir einnig sub lit. O. sedill, undir nøfnum Páls Árnasonar og Steinunnar Árnadóttur á Skálafelli, hvar í þau medkenna, ad þau af fávitsku og bráðrædi hafi verid nørrud til, af Sÿslumanni J. Helgasyni, ad útgjefa þá launsáttar nefnu, um of mikid útheimtad saka-fall eptir Steinunnar Árnadóttur fyrra mann, og declarera þessa launsátt upphafda; þessi sedill er dat. ad Skálafelli, og á hann er teiknad, ad hann se fyrir Hjeradsþíngs retti uppleſinn, áheyrandi Sÿslumanni J. Helgasyni, undirskrifadur af þeim konstitúerada Sÿslumanni Ch. Vigfússyni og 4um mønnum ødrum. Sedillinn var uppleſinn og markadur lit. O, og heyrir til Actørs innleggs, þeim pósti í því, sem merktur er lit. C. Því nærst framlagdi Sÿslumadur S. Petursson bref frá Páli Árnasyni á Skálafelli til Hra. Stiptamtmannsins O, Stephánssonar, hvar í nefndur Páll klagar

yfir þvi, ad Sýslumadur J. Helgason ecki vilji apturkila þeirri sekt, er konúngleg Hátign hafi uppgefid konu sinni Steinunni Arnadóttur; brefid er daterad þann 30ta Aug. 1798, og fylgir þvi vitnisburdur 4ra manna um þad, ad eckjan Steinun Arnadóttir hafi fyrir Retti krafid Sýslumann J. Helgason þess, ad hann apturkiladi nefndri hórdóms sekt, og þá eckert fengid utan mótsvar. Bædi brefid og vitnisburdurinn var lesinn, og hvorttveggja markad lit. P. Sýslumadur J. Helgason bidur, ad Retturinn vilji tilbærilega álíta Sýslumann S. Petursson fyrir grófar Expressiónir. Partarnir adspurdir: hvørt þeir hefdu meira fram ad færa í þessu máli? svøruda bádir: nej! er þad þvi ~~til døms~~ upptekid.

*ut supra.* Grøndal.

## Num. XXXIII.

Þann 18da Juli s. m. settist í Løgþingis-rettinn Vice-Løgmadur B. Grøndal, mættu svo Sýslumennirnir G. Ketilsson, S. Petursson og sá konstitúeradi Ch. Vigfússon, sem framlagdi Løgþingis-rettar stefnu af gjærdags dató, undir hendi og signeti Vice-Løgmanns B. Grøndals, hvar med aptur innstefnist med Astens Varsel saka-persónan Sigrídur Bjørnsdóttir og hennar Talsmadur, Sýslumadur G. Ketilsson til ad túlka hennar málefni. Ad stefnan se løg-

løglega birt Sýslumanni G. Ketilssyni áheyrandi þann áðurnefnda dag, hafa stefnuvitnin Jón Gríms=son og Jón Magnússon uppá hana skrifad, hún lesin og merkud lit. M. Sýslumadur G. Ketilsson setur í Rett, ad Reykjavíkur stefnumenn mættu eid=festast, ádur enn þeir forsjá sig med ad yfirhlaupa fólk med 2ur stefnum á einu dægri, en frambýdur sig óstefndur ad innláta þessa søk til dóms, svo ad Rettens hurtige Pleje hafi þess betur framgáng. Sá konstitúeradi Sýslumadur Ch. Vigfússon, qvedst ecki hafa kunnad ad brúka adra stefnuvotta enn þá, sem Landsógeti P. M. Finne hafi ser tilvísad, og meinar þess vegna ad honum, en ecki ser, beri ad forsvara, hvert þeir seu løggyldir stefnuvottar edur ecki. Actor, Sýslumadur S. Petursson uppástendur nú løglegann dóm, sem fyrr, yfir øllum Delinqventunum, og krefst þar hjá, ad Gudmundar neitan því heldur álítist ad engu, sem hann grunar ad hún muni gjetin vera af Sýslumanns J. Helgasonar anda innblæstri, því þessi Delinqvent hafi notorice hjá honum verid frá 30ta Aug. f. á. til í sídstl. Nóv. þá hann skiladi honum til þess konstitúerada Sýslumanns Ch. Vigfússonar, en um Sýslumann J. Helgason qvedst hann hafa ádur borid vid ad sannfæra Rettinn, ad hann brúki Bænkebreve, bleyfileg skjøl og útnarrada vitnisburdi, sem gjøri hann einnig grunsamann ad hafa narrad Gudmund til ad neita hjer sinni játun fyrir Hjerads=

retti, til ad setja betri farfa á sinn ádur brúkada umgáng í þessu máli. Actor og Defensor geta þess, ad þeir nú hjer um í 8ta daga hafa mátt starfa ad þessum málum, og vona því, í fylgi af þeirra, ádur fyrir Rettinn innkomnu innleggjum, ad þeim verdi tilsögd laun af Júsitits-Kassanum edur annarstadar frá fyrir þeirra Prócúratión. Allir vidkomendur segjast ecki hafa meira fram ad færa í þessu máli, og verdur því endilegur dómur á sinum tíma í því afsagdur.

*ut supra.* Grøndal.

## NUM. XXXIV.

Þann 19da Júlí s. m. settist í Løgþingis-rettinn Vice-Løgmadur S. Stephensen, og ljet upplesa Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar Authorisatión til sín ad dæma í sokinni millum Høndlunar-manns J. A. Wúlffs og Hreppstjórans Jóns Sæmundssonar á Gufuskálum, í forsøllum Hra. Løgmanns M. Olafssonar og Hra Vice-Lagmanns B. Grøndals, hún upplesin merkist lit. D. Því nærst framlagdi Sýslumadur V. Thórarinsson Prócess og dóm af af 23ja Maí 1798, afsagdann af Factor S. Gudlaugssyni, sem undir dómslútníngunna skrifar sig. konstitúeradann Sýslumann, hvar med Jón Sæmundsson á Gufuskálum dæmist til skuldalukníngar vid Kaupmanns Wúlffs høndlun, ad betala 3 rdli. 52 ß.

og

og í málskostnað 5rdli., lesinn og markaður lit. E. Innlegg framlagði Actor, Sýslumaður V. Thórarinsson, sem Talsmaður Jóns Sæmundssonar, af dags dató, er sýna á dómarans í málinu, Factors S. Gudlaugssonar lögum gagnstæðu adferð, óheimild að meðhöndla sökina og affegja dóm í henni, vegna stickunar skorts þar til frá viðkomandi Háyfirvaldi. Í niðurlagi þessa innleggs uppástendur því Sýslumaður V. Thórarinsson, að tiedur dómur verði af Lögþíngis-rettinum sem enginn dæmdur; Actor í Hjeraði, Lögrettumaður Brynjólfur Einarsson dæmist að svara Jóni Sæmundssyni Undir-rettar Prócess kostnaði með 8 rdlm, en Factor S. Gudlaugsson 10 rdlm. fyrir kostnað til þessa Lögþíngis-rettar, og að þessi álítist þar fyrir utan, eptir N. L. 1-5-13. að óleyndum bótum til Júst-Kassans; innleggið lesið og markað lit. F. Factor S. Gudlaugsson framlagði innlegg af 18da hújus, hvar með hann leitast við að sanna, að hann fullkomlega hafi verið authoriseraður til að meðhöndla og dæma sökina milli Kaupmanns Wúlffs og Jóns Sæmundssonar á Gufuskálum, samt uppástendur að sínar dómara aðgjörðir í sömu sök, sen lögum samqvæmar og á þeim grundaðar, lesið og auðkennt lit. G. Sami framlagði innlegg af 18da hújus, hvar í hann uppástendur, að hans dómur verði af Lögþíngis-rettinum staðfestur, ser tildæmist kostur og tæríng af Jóni Sæmunds-

 syni,

fyni, og þessi verdi sem temere litigans álitinn, lesid og markad lit. H. Innleggi þessu fylgdi hans Authorisatión af 11ta Maí 1798. Sýslumadur V. Thórarinsson framlagdi vitnaleidslu Act, genginn ad Keblavík þann 25ta Oct. 1798, þessari sök vidkomandi, lesinn og markadur lit. J. A móti þessum vitnaleidslu Act prótesterar Defensor Brynjólfur Einarsson, vegna þess, ad þad Interlócútoríum, med hvørju vitnaleidslu Jóns Sæmundssonar var frávísad, hafi ei af nockrum Yfir-retti uppdirkennt verid, en Jón stefni ser til ad heyra þessara frávísudu vitna framburd. Factor S. Gudlaugsson framfærir, ad stefnan til þessa vitnaleidslu þíngs hafi ser aldrei auglýst verid, sem fráverandi og í ødrum Landsfjórdúngi, þá hún med ser bar ad lesin hafi verid ad kalldyrum hans. Bádir uppástanda þeir, ad þessi vitnaleidslu Act verdi af Løgþíngis-rettinum ad engu metinn. Løgrettumadurinn Brynjólfur Einarsson framlagdi innlegg af 10da hújus, hvar inni hann uppástendur, ad hann einúngis sem fullmektugur Hra. Vice-Løgmanns B. Grøndals, og eptir Hra. Stiptamtmannsins Constitútión, hafi tekist á hendur Prócúratión í þessu máli, og ad hann frýist fyrir øllum sektum, þar hann ecki hafi gengid út yfir sína fullmakt, heldur hlýdt þeirri sømu, og Hra. Stiptamtmannsins Constitútión, lesid og markad lit. K. Sýslumadur V. Thórarinsson framleggur Copíu af No. 5 og 6, sem vanta

santa í Hjeraðs Próçessinn, nefnilega, fullmakt Kaupmanns Wúlffs til Hra. Vice-Lögmans B. Grøndals, að innkalla skuld hans hjá Jóni Sæmundssyni á Gufuskálum, og þessa svar til Hra. Vice-Lögmannsins viðvíkjandi skuldinni; líka framlagði hann forklárun vitnisins Snorra Jónssonar uppá það 15da spursmál í vitnaleiðslu Actinum. Á móti öllum þessum Bilager próteſtera Factor S. Guðlaugsson og Lögrettumaður B. Einarsson, eða að þau verði að nockru metin, þau verða meðal fylgiskjalanna til Rettarins eptirsjónar. Partarnir aðspurðir: hvört meira hefðu að framsæta í sókn eður vörn? svara: nej! var því málið til dóms upptekið, ut ſupra.

S. Stephenſen.

## NUM. XXXV.

Sama e. m. afſagði Vice-Lögmaður S. Stephensen svolátandi dóm, í skuldaheimtu-málinu milli Kaupmanns J. A. Wúlffs og Hreppstjórans Jóns Sæmundssonar á Gufuskálum.

Við þessa máls náqvæmlega yfirskoðun, finnur Lögþingis-retturinn hellst athugandi Dómarans aðgjörðir og meðferð sakarinnar, þannig á sig komnar: Dómarinn, þá verandi Studioſus Juris, nú Factor S. Guðlaugsson, sem af Heraðs-dómaranum í Gullbringu-sýslu S. Péturssyni, er umbeðinn í þessa for-

forsollum, orsökudum af hans heilsubresti, og af Hra. Stiptamtmanni O. Stephánssyni authoriseradur, ad gjøra reisu til Manntals-Þinga í Gullbríngu-sýslu, hefir álitid sig duglegann til allra Sýslumanns verka, sem kynni fyrir ad falla á Þíngunum, og þess vegna ei vhlad fyrir sér, ad taka á móti stefnu þeirri, er Lögréttumadur Brynjólfur Einarsson, sem tilsettur Tals-madur Kaupmanns Wúlffs, framboud fyrir Manntals-þíngs-réttinum ad Rébllavik þann 16da Maí 1798, þá S. Gudlaugsson, eptir sinni Constitútíón, var þar ad Manntals-þíngs-haldi, né viljad veita þeirri Exceptíón áheyrslu, sem Talsmadur þess innstefnda Jóns Sæmundssonar gjördi móti honum, til nockurra Dómara adgjorda, í þeirri þángad stefndu skuldaheimtu sök, milli Kaupmanns Wúlffs og Hreppstjórans Jóns Sæmundssonar, heldur álitid sig gyldann og rétt kjörinn Dómara eptir sinni Constitútíón, sem þó einúngis segir: ad S. Gudlaugsson skuli myndugur gjordur ad uppfylla Sýslumanns S. Péturssonar til Hra. Stiptamtmannsins framsærdu bón, sem skylaus er þessi: ad hann inegi gjöra reisur sín vegna til Manntalsþínganna, hvad Logþíngis-rétturinn gétur ei skilid, ad grípi meira um sig, enn einúngis ad gegna þeim, af sjálfu Manntalsþíngs-haldinu fljótandi Hérads-dómara skyldum, án þess ad sjá neina roksemd fyrir, ad af Manntals-þíngs ferdum naudsynlega þurfi ad orsakast þessum

óvid-

óvidkomandi saka= dóms álykt anir, edur S. Gydlaugsson þess vegna sé ad álíta, sem authorisseradur til ad dœma í hér tjedri skulda-heimtu sök; heldur virdist hann móti Próteſti Talsmanns Jóns Sæmundssonar ad hafa framhaldid sökinni og dœmt í henni, án þess ad vera þar til authoríseradur, 1). sem incompetent Dómari. Eptir NL. 1—5—1. eiga allir Dómarar ad vera eidsvarnir menn, en S. Gudlaugsson, sem vissi, ad hann engann Dómara eid hafdi aflagt, en sjálfsagt hefir þó verid kunnugur þessu laga bodi, gat því sídur þeckt sig duglegann til ad dœma í máli þessu, álítst hann því ad hafa verid 2). inhabil Dómari; þaradauki sjest ecki af Hérads Prócessinum hvar dómurinn er afsagdur, hvørt heldur fyrir Rétti edur ecki, hvad NL. 1—5—13. þó útþryckilega skipar. Vegna allra þessara hans Dómara óſullkomlegleika, dœmist því rett:

Sá af Factor S. Gudlaugssyni þann 23ja Maí 1798 afsagdi dómur, í skuldaheimtu málinu milli Kaupmanns J. A. Wúlffs og Hreppstjórans Jóns Sæmundssonar á Gufuskálum, skal sem ódœmdur álítast, og ad lögum ógyldur vera. Í málskostnad betali Factor S. Gudlaugsson Jóni Sæmunds-

S syni

syni 6 rdli. Courant, sem skulu loknir vera innan 6 vikna frá þessa Løgþíngisréttar dóms auglýsíngu, undir adfør og Execútión ad løgum.

Factor S. Gudlaugsson vill hafa sér forbeholdet frá þessum dómi ad appellera.

*ut supra.* S. Stephensen.

## Num. XXXVI.

Þann 20ta Júlí s. m. vóru í Løgþíngis-rettinum nálægir Herrar, Stiptamtmadur O. Stephánsson, Amtmadur Vibe, Løgmadur M. Stephensen, Vice-Løgmenn, S. Stephensen og B. Grøndal, Landfógeti P. M. Finne, ásamt ødrum til Løgþíngisins komnum Embættis-mønnum. Í Løgþíngisskrifarans forføllum hjeldt Prótócollinn fyrrum konstitúeradur Sýslumadur J Thorleifsson, eptir Hra. Stiptamtmannsins skickun. Hra. Stiptamtmadurinn ljet upplesa Cancellie bref, svo hljódandi:

### Pro Memoria!

Hans Kongelige Majestæt har under 23de dennes, allernaadigst behaget at resolvere saaledes:

Da Vi have erfaret, at de, i de offentlige Tidender, under Navn af Skrivters Be-

Bekjendtgjørelse til Salg, ofte indføres uærbødige eller forargelige Ord imod Bibelen og den kristelige Religion, samt ærenærgaaende Udtrykke imod Medborgere, hvilke Udtrykke Forfatterne eller Udgiverne af deslige Skrivter eller Blade, med Overlæg lade indflyde i Titelen deraf, i den strafværdige og onde Hensigt: destomere derved at udbrede Forargelse, og desto lettere at krænke den Person, hvis Rygte de søge at sværte og beskæmme, efterdi, de fleste af dem, der læse de offentlige Tidender, ikke have Lejlighed til at læse tillige det, til Salg kundgjorte Blad eller Skrivt, og at veje sammes Grunde; Saa befale Vi, at naar saadanne forargelige eller fornærmende Udtrykke findes i Titelbladet af et Skrivt, maae samme ikke indrykkes i Aviserne, men allene det øvrige af Titelen, som kan vise det væsentlige af Skrivtets Indhold, for hvilket Forfatteren bør staae til Ansvar i det hele; hvilket Cancelliet haver at foranstalte tilkjendegivet enhver, som har Ret til at udgive offentlige Tidender eller Aviser, til Efterretning og allerunderdanigst Efterlevelse.

Cancelliet undlader altsaa ikke herved, tjenstligst at meddele Hr. Stiftamtmand denne

allerhøjeste Resolution, for at bekjendtgjøres Vedkommende. Det Kongel. danske Cancellie, den 26de Maii 1798.

C. v. Brandt.

Schow. Colbjørnsen. Rejersen.

Til
Stiftamtmanden over Island,
O. Stephensen.

Hra. Amtmadur Vibe ljet og auglýsa eptirfylgjandi

## Bekjendtgjørelse:

Da jeg i Overeensstemmelse med det kongel. danske Cancellies Skrivelse af 12te Maii f. A. har føjet den Foranstaltning: at den urolige forrige Præst Olav Gisleſen bliver flyttet fra Dale- til Sneefjeldsnæs-Syssel, til hans derværende Søster-Søn, Forstanderen for Hallbjarnarøres Hospital sammesteds, Gudmund Sivertsen, som er befalet at modtage, og for Fremtiden at underholde og bevogte ham, imod derfor at nyde den bemeldte Gislesen tillagte Pension; saa bliver samme herved til Underretning for Vedkommende almindelig bekjendtgjort, med Anmodning til De-Herrer Sysselmænd og Repstyrere, som muligen maatte antræffe ham udenfor Sneefjeldsnæs-Syssel, om at lade ham igjen transportere derhen. Reykevig, den 20de Julii 1799.

J. C. Vibe.

Þessa

Þessarar auglýsíngar innihald ítrekar Hra. Stiptamtmadurinn fyrir síns Amts innbúum, med áminníng um, ad þeir haldi sér hana og fyrir reglu.

Hra. Landsfógeti Finne lèt upplesa þær venjulegu Specificationir:

1.) Yfir Sýslanna forpaktníngs afgjald.
2.) — Klaustranna — —
3.) — Umbods-jardanna — — fyrir árid 1798.
4.) Lista yfir útistandandi Restansa til Jardabókar Kassans til 19da Julii 1798.

Vóru sídan vid Auctión uppbodnar Kóngs tíundirnar af Arnes-sýslu uppá lífs-tíd, og tilslegnar Hra Sýslumanni S. Finnssyni, sem hæstbjódandi, fyrir 30 rdli. 32 ß. Cour. Fyrir tíundanna árlegt eptirgjald pantsetti Sýslumadurinn eignar-jord sína Krók í Hraungerdis hrepp.

Loksins spurdi Hra. Landsfógetinn ad: hvört kónglegri Hátign væru tilfallnar forbrotnar búslódir, afgalaust góts eda strönduð skip, fyrir árin 1797 og 1798? svorudu nálægir nei, nema konstitúeradur Sýslumadur Th. Vigfússon; sem gaf til kynna, ad búslód Þorvardar Bjørnssonar í austur Skaptafells-sýslu, hlaupandi til 4 rdla., væri Kónginum tildæmd.

Jón Benediktsson á Brecku í Isafiardar-sýslu Þinglýsir, ad hann vilji til á-býlis upptaka eydi-jordina Vigdýsarstadi í Laugabólsdal á Lángadalsströnd. *ut supra.*

M. Stephensen. Grøndal.

## Num. XXXVII.

Þann 22ann Júlí settist Lögmadur M. Stephensen í Dómara sæti, og afsagdi svo látandi Dóm í Landaþrætu málinu milli Reykja og Steinstada í Skagafirdi.

Um landamerki milli jardanna Steinstada og Reykja í Skagafirdi, er á sumrinu 1798 qviknud svo alvarleg þræta, ad hún sama sum-arid var lögd undir Sýslumanns J. Schév-ings og 6 meddóms-manna áreid og dóm, en med hvörutveggja er Steinstada fyrirsvars madur Páll Sveinsson midur ánægdur, og bidur med Memorial af 22rum Aug. nærstl. ad Sýslumanni J. Schéving og meddóms-mönnunum ásamt eigendum Reykja, Eggert Presti og Hinrik Eiríkssonum, verdi híngad til Lögþíngis stefnt, ef svo vill, til ad heyra máli þessu í Hérad heimvísad medal annars. Vegna þeirra stefndu mætti nú Sýslumadur J. Schéving, og allra þeirra sameiginleg krafa verdur, ad mál þetta enganveginn dæmist hér, þar hér sé óréttur dómstadur, heldur lög-um samqvæmt med Lögmanns áreid í Héradi;

En

En stefnandans Svaramadur ber fyrir sig Steinstada hefd, sem eptir vitna framburdi í Héradi egi ad gëta hneckt Reykja máldaga af 1520, og Løgmanns áreidar dómi af 1621, þó hann undir eins í innleggi af 8da þ. m. hér mørkudu lit. F. sjálfur átélji vitnaleidslsuna, sem ófullkomna og ógreinilega, hvad þó er honum og Páli á Steinstødum til falls en ecki styrktar, því Páls eins var ad spyrja Ktarlegar, greinilegar, og upplýsa málid sem best med gøgnum og vitnum, en ecki Dómarans í fasteigna þrætunni, á hvørjum illa hefdi þókt sitja ad vera undir eins Dómari og talsmadur Páls, þar hér var ecki um sakamál ad dæma; og Páll lætur nú átelja auk þessa, ad vid áreidina og dóminn, séu sett ný og óþeckt landamerkja ørnefni, svo sem: Brædur, Olboga-melur, Mylnu-tjørn, en gømlum sleppt, svo sem: Geil eda Klauf, Merkjagërdis-hømrum, Mosa-këldum og fleirum, og ber illa saman um hvar þessi ørnefni egi heima. Þó hugsar Páll Sveinsson ad Logþingis-rétturinn skuli nú hér úr skëra, hvør ørnefnin réttari séu, og hvar lenda, jafnvel án þess ad vita sjálfur edur hafa hér reolulega sýnt, hvar hann vilji ad takmørk séu Reykja og Steinstada lands eptir ógreinilegum vitnum, og aldrei med dómi løggyldum, en þess vegna med máttarlitlum løgfestum, allt þetta án þess ad Løgmanns áreid komi til, eda svo mikid sem málverks mind yfir þrætu-plátsid,

svo

svo Rètturinn ad minnsta kosti fengi ágætskad í hvørri átt þad landstycki lægi, sem hesd skyldi vera ákomin, og umbreytt sá þeim gömlu landamerkjum, sem máldagar og Logmanns dómur tiltaka; skjol, sem hér eru framkomin svo á sig komin og med hángandi innsiglum á kálfskinni, ad hvorki Rètturinn né heldur stefnandans svaramadur hafa hér fundid orsök til ad yggja þeirra gyldi, enn þótt þessi hafi jafnvel ecki vhlad fyrir sér ad brúka þar um þau svigurmæli, ad skjolin máské uppdiktud séu. Menn samanberi nú þenna ónóga undirbúning máls þessa ad stefnandans álitu, og ótilhlydilegu innstefningu híngad til Logþíngis-réttar, fyrst vid N.L. 1—16 og Tilskipanirnar af 24da Febr. 1708, og 31ta Martsí 1719 í samanburdi vid Kóngsbréfid af 23ja Aug. 1754, sem gjörir rád fyrir ad landaþrætu mál oll dæmist eptir landamerkja skodanir, nema því greinilegri afmálan plátsins fyrir ædri Rètt framleggist, af hvorri hér sjest engin mind, en Hérads-dómarinn, Sýslumadur J. Schéving hefir þó fyrir þessum Rètti framborid, ad Páll Sveinsson hafi svo litid alid onn fyrir ad þessi gjord væri, ad hann þvertámót hafi ridid burt, þegar hún hafi átt ad gjorast, enn, þótt advaradur vid ad vera. Beri menn því nærst þessa málssókn hér saman vid Kóngs-bréfin fyrir Norveg af 9da Nóv. 1781 og 13da Júlí 1787, sem banna Logmonnum ad dæma landa-þrætu mál án mál-

málverks yfir þrætu-plátsid, nema þeir ríði á londin sjálfir, og partarnir skeyti ecki um þeirra afmálun, þá sjest af ollu þessu, ad mál þetta verdi hvorgi nema med Logmanns áreid dæmt í Héradi réttilega; því ályktast rétt ad vera:

Þessu Landa-þrætu máli milli Reykja og Steinstada, er hér med af þessum Logþíngis-rétti vísad til Logmanns áreidar á þessara jarda landamerki, vilji hlutadegendur í nockru áfríja Hérads dóminn, og standi þeim frítt fyrir hana ad odlast, ef vilja, innann 15da Sept. þ. á: eptir tímanlega bón þar um. En kostnad og reisu til þessa Logþíngis, gjaldi Páll Sveinsson Hérads-dómaranum, sem allra innstefndra vegna mætir nú hér, med 10 rdlm. Courant innan 6 vikna frá þessa Logþíngis-réttar dóms auglýsíngu í Héradi, undir adfor eptir logum.

*ut supra.* M. Stephensen.

## Num. XXXVIII.

Þann 23ja Júlí e. m. settist Vice-Logmadur, B. Grøndal í Logþíngisréttinn, og afsagdi eptirfylgjandi

 dóma

dóma í Hérdóms- og Blódskammar- málunum úr Austur Skaptafells-sýslu.

### Í Hérdóms máli Sveins Sveinssonar, fyrrum á Felli.

Fyrir 8ta árum síðan flytur sig bóndinn Sveinn Sveinsson med konu sinni Þórdísi Sigurdardóttir, ad Felli innan eystri Skaptafells-sýslu, til þar verandi ekkju Ranveigar Jónsdóttur, sem árid 1791 þann 14da Aug. fædir barn, og lýsir þann eginngipta Svein Sveinsson fodur ad því sama, hvört brot hann einnig þá strax medgengur. Aptur árid 1797 þann 7da Maí fædir ekkjan Ranveig Jónsdóttir enn þá barn, er hún kénnir nefndum Sveini Sveinssyni, og vid því gengur hann einnig. Seinast árid sem leid 1798 þann 26ta Júlí, kémur Ranveig nidur ad því 3ja barni, og nefnir enn þá Svein Sveinsson fodur ad því, aengur hann þá og vid hennar lýsingu. Yfir öllum þessum Guds og Kóngsins logum mótstríðandi lauslætis athöfnum Sveins, situr Sýslumadur J. Helgason adgjörda- og framqvæmdar-laus hér um 8ta ár, þángad til Hra. Stiptamtmadur O. Stephánsson fær frá nefnd-ar sýslu andlega Yfirvaldi ávísun hér um á nærstlidnu ári, og befalar þá strax þeim konstitúerada Sýslumanni Ch. Vigfússyni, ad nqvirera um og fella dóm á þetta stórmæli. Þetta skédur einnig þann 20ta Oct. nærstlidna á Borgarhöfn,

hvört

hvört Ranveig og Sveinn á Felli stefnd vóru, og hvar þau bædi skýlaust vidkannast sinn fyrra framburd: hún um þær 3 barnsfadernis lýsingar úppá Svein, og hann um sínar medkénningar á þeim somu. Þau 5 til ofannefnds Réttar á Borgarhøfn innstefndu vitni, gátu enga grein á þvi gjört, hvört Sýslumadur J. Helgason hefdi haft nockru sinni vidburdi til ad skilja þau Svein og Ranveigu hvört frá ødru; en þad 6ta vitni Asgrímur Hallsson, qvedst bréf hafa fengid ár 1797 (án efa frá Sýslumanni J. Helgasyni) um þad, hann skyldi opinbera Sveini, ad hann ecki lengur mætti vera á Felli, og medgengur þar hjá, ad hafa eptir beidni Sveins skrifad Sýslumanni aptur undir sinu nafni, um Attest fyrir hann edur Sýslupassa, hvørn Sýslumadur J. Helgason, í innleggi af 17da Oct. s. á. fyrir Rétti ad Borgarhøfn, þann 20ta s. m., segir sér hafi verid ólevfilegt ad gefa honum, þar Kóngur hafi leyst Sveini, sem ødrum hórkørlum sýsluvist. Í innleggi til sama Réttar hefir Sveins setti Talsmadur framfært honum til linkindar, ad Sýslumanns J. Helgasonar rádstøfunarleysi megi þad tilreiknast, ad Sveinn sé fallinn í svo mikla óhæfu þrisvarsinnum, samt ad kona Sveins, Þórdis Sigurdardóttir hafi í rúm 8ta ár verid hans handbjargar ómagi. Sýslumadur Ch. Vigfússon hefir samt dæmt; ad Sveinn Sveinsson skuli hafa fyrirgjørt lífi

sinu og missa høfud sitt med øxi, fyrir Þau 3 af honum fremdu hórdóms brot. Þessum dómi hefir nefndur Sýslumadur hingad til stadfestingar innsendt, fengid Actorem Sýslumann S. Pétursson og Defensorem Sýslumann G. Ketilsson frá Stiptamtinu skickada, sem ástundad hafa Þeirra embættis skyldur hvørr fyrir sig eptir megni. Sjálfur Delinqventinn Sveinn Sveinsson er af Þessum Logþingis-rétti náqvæmlega examineradur um hans ofan umgétin 3 hórdóms-brot, og medgenaur hann skýlaust allt Þad, sem í Hérads Próceßinum er honum til áfellis og málsbóta framfært; hvørs vegna Þessi Logþingis-réttur ecki kann annad enn dæma:

**Delinqventinn Sveinn Sveinsson, fyrrum búandi á Felli í austur Skaptafells-sýslu; egingiptur madur, skal fyrir hórdóms brot í Þridja sinni med Ranveigu Jónsdóttir, eptir Stóra-dómi, dat. 30ta Júnî 1564, allranádugast stadfestum Þann 13da Aprílis 1565, samanbornum vid NL. 6—13—25. og eptir Forordn. af 21ta Oct. 1791, missa sitt høfud med øxi, og allir hans lausir aurar forbrotnir vera undir Kóng; Þó má engin Execútíon**

eptir

eptir þessum dómi ské, fyrr enn þetta mál, med øllum þess atvikum, er túlkad fyrir konúnglegri Hátign, til allramildilegustu adqvæda. Fyrir þessa stórmælis lánga drátt til løglegra vidgjørda og ennur laga-brot, er Sýslumadur J. Helgason justitialiter løgsóktur í ár fyrir þessum Rétti, á hvørt mál þegar dómur fellur, mun þessarar Sýslumannsins forsómunar tilhlýdilega gétid verda.

J Blódskammar máli systkynanna Gudmundar, Þorvardar og Sigrídar Bjørns barna.

Þetta stórmæli vard fyrst opinbert þann 11ta Janúari 1796, þegar saka-stúlkan Sigrídur Bjørnsdóttir fæddi barn, er hún lýsti brodur sinn Gudmund Bjørnsson fødur ad. Annad barn fædir nefnd Sigrídur þann 5ta Júní 1797, og lýsir faderni þess á sinn annann holdgétinn bródir Þorvard Bjørnsson. Þegar Hra. Striptamtmanni O. Stephánssyni barst þessi óhæfa (því løglega var hún aldrei fyrir honum angéfin af Sýslumanni J. Helgasyni, hvad þó átti ad ské eptir Forordn. af 3ja Júní 1796, Kap. 9. §. 28, og ádur útgéfnum Cancellie Ordres af 25ta Apr. 1789) setur hann þann 25ta Júlí næstlidna fyrrum

konstitúeradann Sýslumann í Vestmannaeyjum J. Thorleifsson, til ad inqvirera í og dóm á leggja þetta mál, hvad einnig skédur á Borgarhøfn þann 30ta Aug. f. á., hvar allir ofannefndir misbrota-menn koma fyrir Rétt, og medkénna lausir og óneyddir þeirra stórglæpi. Þessi systkyni eru því øll af þeim nefnda Sýslumanni, sama dag dæmd til ad missa hofud sín med øxi, fyrir þeirra drýgdu blódskamma brot. Sá konstitúeradi Sýslumadur í austur Skaptafells-sýslu, í stad þess súspenderada Sýslumanns J. Helgasonar, Ch. Vigfússon, lætur því innstefna brædrunum Gudmundi og Þorvardi Bjørnssonum, samt systur þeirra Sigrídi Bjørnsdóttir med Talsmanni, fyrir þenna Løgþingis-rétt, hvar nefndir bádir brædur mæta, og Hrg. Stiptamtmadurinn hefir þann 18da Júlíus sett þeim Defensórem, Sýslumann G. Ketilsson, og Sýslumann S. Pétursson til ad agera mál þetta þeim á móti. Sá setti Sýslumadur Ch. Vigfússon hefir fyrir þenna Rétt framlagt vitnisburdar sedil, tekinn fyrir Rétti á Borgarhøfn þann 8da Maí þ. á. og undirskrifad med 8ta mønnum, vidvíkjandi því, ad saka-persónan Sigrídur Bjørnsdóttir ecki sé flutnings fær til Løgþingisins, vegna stórkostlegrar heilsu-veiki, er med jafnadi haldi henni vid sængina. Sakamennirnir brædur hennar, Gudmundur og Þorvardur Bjørnssynir, vóru náqvæmlega adspurdir af Réttinum um

þad,

þad, sem þeir fyrir Hérads-rétti Sýslumanns J. Thorleifssonar höfdu skýlaust óneyddir medkénnt, um barneign med Sigrídi systur þeirra, og annad fleira þessu máli vidkomandi, sem í Hérads Próceßinn er innfært; hvar til sá fyrri, nefnil. Gudmundur Björnsson svarar: ad hann nú vilji gánga frá öllu því, er hann hefir medkénnt fyrir Hérads-rétti um barnsgétnad med systur sinni Sigrídi, qvedst til þess hafa verid yfirtaladur af Sýslumanni J. Thorleifssyni ad medgánga þetta brot, og býdur eid til styrkíngar þessari neitun sinni. Actor hefir hér til svarad, ad þad, sem Gudmundur laus og óneyddur fyrir Rétti Sýslumanns J. Thorleifssonar hafi játad, um barnsfadernis medkénníngu Sigrídar Björnsdóttir, kunni hann nú ecki apturkalla, getur þar hjá þess: ad hann hafi Sýslumann J Helgason grunsamann fyrir því, ad Gudmundur sé nú, eptir fortölum hans, fallinn á ad neita því, er hann fyrir Hérads rétti ádur fortakslaust játad hafi. Sá annar Delinqventanna, Þorvardur Björnsson medkénnir þarámóti allt hvad í Hérads Próceßinum um sig sé framtalid, vidvíkjandi barnsgétnadi med systur sinni Sigrídi. Defensor Sýslumadur G. Ketilsson krefst þess: ad systkynin, Gudmundur, Þorvardur og Sigrídur Björns börn, verdi frí frá öllu líkamlegu straffi, þángad til Kóngs úrlausn skédur á þessu máli. Þegar nú Rétturinn yfirvegar, ad systkynin, Sigrídur,

ur, Gudmundur og Þorvardur hafa tregdu-lauſt og óneydd, fyrir Hérads-rétti Sýſlu-manns J. Thorleifsſonar, medkénnt þeirra blódſkamma brot, og ſtadid vid þá ſomu med-kénníngu fyrir þeſſum Logþíngis-rétti, þá kann ſami ecki heldur ad frítaka þau fyrir því ſtraffi, er þar til heyrandi konúngleg lög hafa ſlíkum áqvardad; því þótt Gudmundur vilji gánga frá því nú, ſem hann óneyddur fyrir Rétti á Borgarhøfn þann 30ta Aug. ſidſtl. medgeng-id hefir um barnsgétnad vid ſyſtur ſinni Sig-rídi, þá kann ecki þeſſi játunar apturkallan hans ad fría hann í nockurn máta frá for-þéntu ſtraffi, þar NL. 1—15—1 ſegir þad augljóslega, ad enginn megi ſídan frá því gánga, ſem hann fyrir dómi og Rétti ſé kærd-ur fyrir og hann þar medgengid hafi; þeſs-vegna dæmiſt rétt ad vera:

Delinqventarnir, þeir brædur Gud-mundur og Þorvardur Bjørnsſynir og ſyſtir þeirra Sigrídur Bjørnsdótt-ir, ſkulu, þeir tveir fyrſtnefndu hálshøgg-vaſt med øxi, og Sigrídur dreckjaſt, ſamt allt þeirra lauſagóts forbrotid vera undir Konúng, eptir Stóra-domi af 30ta Júní 1564, allramildilegaſt ſtad-feſtum árid 1565, þann 13da Aprílis, ſamanbornum vid NL. 6—13—14, og

For-

Forordningarnar af 14da Dec. 1775 og 21ta Oct. 1791; þó skal eptir þessúm dómi engin Execútión framfara fyrr enn um þetta stórmæli er fengin, með öllum þess atvikum, Konúngsins allramildasta úrlausn. Er svo dómur Sýslumanns J. Thorleifssonar, genginn í þessu máli að Borgarhofi þann 30ta Aug. 1798, af Løgþíngis-réttinum staðfestur; en fyrir ólöglegann drátt og aðgjørdaleysi Sýslumanns J. Helgasonar við þetta stórmæli, er hann í ár justitialiter løgsóktur fyrir þessum Rétti, vegna hvørs dráttar og aðgjørdaleysis honum munu áqvarðaðar verða full-komnar lagasektir, með endilegum dómi í því máli. Hvað þann framlagða reikníng Sýslumannanna G. K. tilssonar og S. Péturssonar áhrærir, um að fá þeirra Prócúratión í báðum þessum Delinqventa málum, tildæmdann sér af þessum Rétti, þá vísast þeim í því efni til Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar aðqværa, hvørjum þóckn-

 ast

ast hefir ad skicka þá til ad uppátaka sèr nefndá Prócúratión.

Delinqventinn Sveinn Sveinsson var adspurdur af Rettinum: hvert hann vildi appellera frá þeim yfir honum afsagda dómi? svarar: ad hann setji sitt málefni til Kóngs nádar. Hinir 2 Delinqventarnir Gudmundur og Þorvardur Björnssynir vóru einnig adspurdir: hvert þeir vildu appellera frá þeim yfir þeim sömu afsagda dómi? gáfu þeir til svars: sá fyrri, nefnil. Gudmundur, ad hann nú fullkomlega játi á sig, ad vera fadir þess barns, er Sigrídur systir hans í heiminn fæddi þann 11ta Jan. 1796, og qvedst setja vilja framvegis málefni sitt til Kóngsins nádar, ásamt hinum bródurnum Þorvardi Björnssyni. Gudmundur segir þar hjá, ad hann hafi forfærdur verid af Sýslumanni J. Helgasyni, til ad gánga frá medkenníngu þeirri, er hann gjørdi fyrir Hjerads-retti Sýslumanns J. Thorleifssonar, þann 30ta Aug. sídstlidid ár.

*ut supra.* Grøndal.

## Num. XXXIX.

Þann 23ja Júlí e. m. upplas Vice-Løgmadur S. Stephensen Hra. Løgmanns M Stephensens vegna, svolátandi dómsúrtíngu í Rysfínga málinu milli Factors Christjáns Hólms og Bjarna Bjarnasonar í

Snæ-




Snæfellsnefs-sýslu, þar Hra. Lögmaðurinn, vegna lasleika, ecki gat sjálfur í Rettinum setid.

Þann 12ta Mart. næstl. hefir Sýslumadur F. Jónsson dæmt ad Ingjaldshóli, Factor Christján Hólm í Olafsvík, fyrir hnefa-högg, hártog og klæda-rif, veitt Bjarna Bjarnasyni vinnumanni á Breidabólstad, í 27 rdla. bætur, og ad gjalda Bjarna 6 rdli. í málskostnad, allt þetta, eins og þad heitir í dóminum, ádur enn 3 sólir væru af himninum. Þennann dóm átelur Factor Ch. Hólm, vegna þess hann meinar sitt varnarþíng hafi ecki verid Ingjaldsholl heldur Olafsvík, stefnu-frestur ofnaumur frá 8da til 11ta Mart.; ad vitninu Arna Bjarnasyni, sem var nálægur, og mögulega hafi gétad eitthvad borid fram sér til afbötunar, hafi sleppt verid óafheyrdu, og þá engin vitnaleidsla þókt framar þurfa, en vitnid Bjarni Bjarnason, sem ecki mætti, þó verid dæmt strax eptir í fallsmáls-sektir, hin vitnin illa afheyrd og aldrei konfronterud, hvad Sýslumadur í innleggi sínu hér, tjáir ad hefdi mátt villa vitnin, sem sáheyrd afbatan og sánhyt virdist. Þad er annars hvergi bodid, ad öll þesshattar mál, sem tilfalla kunna milli innbyggjaranna og hér búfastra höndlunar-manna skuli med Gésta-réttum afgjörast, því öllu ödru máli er um sjófarandi fólk og höndlunar-menn og kaupstada sakir ad gégna, ecki heldur hefir Herads-

I 2 dóm-

dómarinn haldid Réttinn sem Extra-rétt, þeg-ar hann til hans brúkadi 4 þings-vitni, sem stríðir ægn Tilskipun af 3ja Júni 1796, Kap. 9. §. 36., og hefdi Gesta-réttar hald átt ad vera í góðvildar skini gjört vid hondlunar-manninn, var þad líklegast í Olafsvík, svo hann sem skémst hefdi þurft ad hindrast. Ad þarámót dómur er affagdur ad Ingjaldshóli, eptir svo naumann stefnu-frest, og ad óakt-adri Factors Ch Hólms á stefnúna teiknadri afsökun þar ad mæta þá, og án þess ad heyra vitnin Arna Bjarnason og Bjarna Bjarna-son, sem stefnandinn vonar eitthvad mundu sér til afsökunar sá borid, er alltsaman ofhardt skjótrædi, þvi framar, sem hinn seki var hér framandi og í vors lands gyldandi landslög-um sák ódur madur, en sækjandi hafdi sér dugleganu Talsmann fengid; **þvi dæmist rétt ad vera:**

Sýslumadur F. Jónsson skal á eg-inn kostnad fríska Factor Ch. Hólm upp þessa sök, med nýju Réttarhaldi í somu, vid hvort bædi somu vitni og þau tvo eda hvor fleiri, sem enn vera kunna vid undanfarid Réttarhald í þessu máli óafheyrd, náqvæmlega afheyrist, kon-fronterist og þeirra enn ósvornu eidur ordrétt, eins og hann stýlast þeim, án

þeirr-

þeirrar undanfellíngar allra atrida, sem Sýslumadur Finnur, í Prócessa útgáfum, nú leyfir sér, í þíngbókina innfærist. Kostnadur til þessa Lögþíngis-réttar er þó af engum hlutadegenda dæmdur.

Þessi dómur var uppleſinn ad nærverandi Sýslumanni. J. Scheving. ut ſupra.

S. Stephenſen.

# Num. XL.

Þann 24da Júlí e. m. afſagdi Hra. Lögmadur M. Stephenſen ſvo látandi Lögþíngis-réttar dóm í áflogamálinu milli Daníels Plúms í Ólafsvík og Jóns Hálfdánsſonar í Rift.

Ut af óſæmilegu klám-yrdi, ſem Jón Hálfdánsſon hreyfti fram í búdinni í Olafsvík næſtlidid ſumar, hvørt Aſsiſtent Daniel Plúm mun hafa meint til ſín ſneidt, hófuſt ſtrax áflog nefnra manna á milli, ſem D. Plúm vakti, en Jón Hálfdánsſon ſær ſér Talsmann Olaf Bjørnsſon á Kjalveg, og ſtefnir D. Plúm þann 8da Martſi til Ingjaldshóls Extra-Þíngs, ſem haldid er þann 11ta næſt eptir og þann 12ta dæmt, ad D. Plúm bæti fyrir hefud-høgg veitt Jóni Hálfdánsſyni 9 rdlui, og 3 rdlm. í málskoſtnad, auk þeſs ſverji ſig friian frá, ad hafa veitt Jóni fleiri høgg

 eda

eda snoppúnga eda bitid hann, annars ad bæta hér fyrir 37rdlm. D. Plúm hefir uppá-stefnuna skrifad somu assokun frá ad mæta á Ingjaldshóli, sem Ch. Hólm í nýdæmdu slagsmáli, mætti heldur ecki, en átelur nú ad dómur hafi verid árekinn á óréttum þingstad, eptir osstuttann stefnufrest, sér því framandi manni, og í Réttargángs sokum sáfródum, fyrirmunad ad útvega sér duglegann Talsmann, hvad Logþíngis-rétturinn og finnur því framar ósamqvæmt logum, sem Sýslumadur F. Jónsson hefir Réttinn haldid med 4 þíngvitnum, og sett 15 daga frest fyrir útsvarid eptir dóminum, ósamqvæmt ollum Gesta-rétti, eptir NL. 1—22—19, í samburdi vid 4—8—1, Tilskipun af 13da Júní 1787, 2 Kap. §. 21. og Tilskipun af 3ja Júní 1796, 9 Kap. §. 36. enn þó mót skriflegri assogn D. Plúms á stefnunni dæmt málid, eptir svo naumum stefnufresti í áfloga máli, sem alls ecki átti fyrir Gesta-rétti ad sækjast, hvar allir vidkomendur vóru búfastir hér í landi; því dæmist rétt:

Sýslumadur F. Jónsson skal fríska Assistent D. Plúm upp þetta mál á ný á eginn kostnad, med nýju Réttarhaldi í málinu, þar hans Hérads dómur af 12ta Mart. næstl. skal sem ódæmdur álítast; en í málskostnad híngad til Logþíngis gjaldi Sýslumadur F. Jónsson

til

til D. Plúms 6 rdli. innan 6 vikna frá loglegri auglýsingu þessa dóms í Héradi, undir adfør eptir løgum.

Dómurinn var í Løgþingis-rettinum upplesinn, í forsøllum Hra. Løgmanns M. Stephensens, ad nærverandi Sýslumanni J. Scheving, sem enga fullmakt segist hafa frá honum ad appellera.

*ut supra.* S. Stephensen.

## Num. XLI.

Sama e. m. settist í Løgþingis-rettinn Vice-Løgmadur B. Grøndal, og afsagt eptirfylgjandi dóm á Súspensións máli Sýslumanns J. Helgasonar.

Undirbúníngur og addragandi þessa máls, er þannig varinn: þad konúnglega danska Cancellie hefir, þann 2ann Decembr. 1797, skipad: ad Sýslumadur J. Helgason skyldi Justitialiter løgsóktur verda, "for hans formeentlig lovstridige Opførsel, i en, mod „Gudmund Bjornsen, anlagte Justits Sag," hvar Gudmundur var ad því uppvis ordinn, ad hann barns hefdi ablad med systir sinni Sigridi Bjørnsdóttir. Eptir nefndum Cancellie Ordres, lætur Hra. Stiptamtmadur O. Stephánsson innstefna Sýslumanni J. Helgasyni fyrir Løgþingis-rétt árid 1798, hvar þá fellur svo látandi dómur yfir honum, ad hann skuli

